Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks íslands/Marxista-Lenínista

**STÉTTABARÁTTAN VIKUBLAÐ. MÁLSVARI VERKAFÓLKS!**

Ársáskrift .............3000kr.
Hálfsársáskrift........1800kr.
Ársfjórðungsáskrift.... 1000kr.
Baráttuáskrift (gildir fyrir heilt ár)..........5000kr.
Öryrkjar . heilt ár. 300kr.

31. tölublað. | Þriðjudaginn 13. september. | 6. árgangur | VERÐ KR : 60.

# BSRB: Verkfallsboðun

Samninganefnd BSRB hefur nú afhent fulltrúum ríkisvaldsins verkfallsboðun ríkisstarfsmanna þar sem verkfall er boðað frá og með 26. sept. n.k. Sáttanefnd ber nú skylda til að leggja fram sáttatillögu eigi síðar en 21. sept. og skal sú tillaga borin undir atkvæði allra ríkisstarfsmanna. Er nefndinni jafnframt heimilt að fresta boðuðu verkfalli um 15 daga eða til 11. okt. ef ekki hafa náðst samningar fyrr.

Sáttatillaga telst felld ef helmingur þeirra sem atkvæðisrétt hafa greiða atkvæði gegn henni. Ef svo verður skellur verkfall á. Það er þannig í ákvörðunarvaldi allra félaga BSRB hvort farið verður í verkfall til að ná fram þeim kröfum sem settar hafa verið fram.

### Hvernig verður tillaga sáttanefndar?

Ástæðan fyrir því að ákveðið var að grípa til verkfallshótunar var aðallega sú að það tillboð sem ríkisvaldið gerði opinberum starfsmönnum var í alla staði ófullnægjandi. Ekki er enn ljóst hvaða tilboð sáttanefndin mun koma fram með, en líkur eru á að hún muni ekki ganga mikið til móts við kröfur BSRB. Sáttatillaga sem opinberir starfsmenn geta fellt sig við hlýtur að verða að byggjast á þeim meginkröfum sem þeir settu fram þegar í vor. Meirihluti þeirra eru engir hálaunamenn heldur liggja laun þeirra flestra (um 86%) á bilinu 98-144 þúsund kr. á mánuði, en það eru laun í launaflokkunum B-4 til B-15. Slík laun nægja ekki til að framfleyta fjölskyldu og er því ein meginkrafan í þessari launadeilu umtalsverð launahækkun.

### Einn - á móti 10 þúsund

Þótt sáttanefnd byði eitthvað það sem opinberir starfsmenn gætu sætt sig við, og það yrði samþykkt í allsherjaratkvæðagreislunni, hefur fjármálaráðherra samt neitunarvald. Ef hann segir nei verður sáttatillagan ekki að kjarasamningi. Blað fjármálaráðherra, Morgunblaðið, er strax farið að hefja áróðurinn gegn kjarabótum til opinberra starfsmanna, þennan sama áróður og blaðið ber ætíð á borð þegar láglaunahópar í þjóðfélaginu krefjast launahækkunar. Það er enn í fersku minni hvernig blaðið hamaðist við að reyna að telja almenningi trú um að kaup láglaunaðs verkafólks væri aðalverðbólguvaldurinn. Nú eru skriffinnar þess aftur farnir af stað og nú er það boðskapurinn að launahækkun til opinberra starfsmanna muni hafa í för með sér gífurlegar skattabyrðar fyrir allt annað launafólk í landinu.

Trúir þeirri stefnu sinni að deila og drottna nota auðherrarnir þá aðferð, til að reyna að sundra samstöðu launafólks, að skipta launafólki í tvo stríðandi hópa, annars vegar þá "sem liggja uppi á ríkinu" (BSRB) og hins vegar launafólk á "hinum almenna vinnumarkaði" (ASÍ). Sú móthverfa sem er á milli þessara hópa er þó hverfandi miðað við móthverfuna sem er á milli annar vegar launafólks, bæði innan ASÍ og BSRB og hins vegar borgaranna og ríkisvalds þeirra. Í því hvort veita eigi opinberum starfsmönnum kjarabætur, fara ekki saman hagsmunir félaga í ASÍ og borgaranna gegn hagsmunum ríkisstarfsmanna, en það er sá boðskapur sem þeir Morgunblaðsmenn hafa reynt að koma á framfæri. Þvert á móti hljóta félagar ASÍ og BSRB að standa saman um þá kröfu að hækkuð laun opinberra starfsmanna verði ekki greidd með aukinni skattabyrði á launafólk. Í staðinn setjum við fram kröfuna: "Enga skatta á þurftar laun - skattleggjum auðvaldið".



Mattías

### Undanþágunefnd

"Verkfallsréttur" opinberra starfsmanna sem kirfilega er bundinn í lögum er að mörgu leyti takmarkaður. Takmarkaður að því leyti t.d. að einstaka félögum ríkisstarfsmanna er ekki heimilt að boða til verkfalls til að ná fram kröfum sínum, heldur skulu allir fara í verkfall í einu. Styrkur slíks allsherjarverkfalls liggur fyrst og fremst í því að með því má lama allt ríkisbáknið. Borgurunum er að sjálfsögðu kunnugt um að það yrði þeim

framhald á síðu 3

# Lélegir starfshættir Öryggiseftirlitsins

## Er ekki kominn tími til að ríkissaksóknari hefji rannsókn?

Vinnandi fólk er orðið langþreytt á því hvernig staðið er að öryggismálum þess á fjölmörgum vinnustöðum. Gjarnan er öryggiseftirlit Ríkisins haft að skotspæni enda starfa tveir embættismenn á vegum þess sem eiga að fylgjast með og gera kröfur um úrbætur í öryggismálum. Vissulega eru tveir menn allt of lítið ef fylgjast á með öryggismálum vinnustaðanna svo vel sé, en það afsakar ekki lélega starfshætti þessara manna. Verkafólki er spurn, fyrir hvað þiggja þessir menn laun? Fyrir að vera sofandi embættismenn sem ýja sér við að styggja atvinnurekendur til að halda öryggisreglur?



Þetta er nýbyggingin í Kópavogi þar sem vinnupallurinn hrapaði verkamaður beið bana og annar slasaðist lýfshættulega.

Nú skulu tekin nokkur dæmi um frammistöðu Öryggiseftirlits ríkisins, en rétt er að benda á að sögn þeirra manna sem hjá því starfa hafa þeir ekki lagalegan rétt til að stöðva lífshættulegar vélar og vinnutæki, heldur aðeins að koma með kurteisleg tilmæli til atvinnurekenda um að úrbætur verða gerðar án tafar. Í marsmánuði í vetur átti sér stað það vinnuslys hjá Eimskip að stærsti lyftarinn þar keyrði yfir fótlegg verkamanns með margra tonna þunga sínum. Tildrög slyssins voru þau að sólskin var úti og stjórnandi lyftarans blindaðist augnablik þegar hann var að fara inn um dyragættina á svonefndum A skála, en þar er lýsing mjög slæm. Þá skeði fyrrnefnt óhapp og eins og reglurnar gera ráð fyrir var öryggiseftirlitið kallað á vettvang. Verkamennirnir bentu á að ástæða slyssins væri rökkrið í pakkhúsinu, en öryggiseftirlitið sá sér ekki ástæðu til að krefjast bættrar lýsingar. Meðan svo er bíðum við bara eftir limlestingu næsta vinnufélaga eða dauða, því Eimskip, óskabarn þjóðarinnar, og öryggiseftirlitið sjá ekki ástæðu til að lagt sé út í kosnað við öryggisatriði.

Nú nýverið áttu sér stað tvö alvarleg vinnuslys hjá Álafossverksmiðjunni í Mosfellssveit. Þau bar að með sama hætti þrátt fyrir að öryggiseftirlitið væri búið að koma eftir fyrra slysið og líklega gera kröfu um úrbætur. Það afsakar samt

Framhald á síðu 2.

# Verður framboð í Dagsbrún?

Á vinnustöðum þar sem Dagsbrúnarmenn vinna er oft á tíðum rætt um ástandið í verkalýðsfélaginu og eru margir á þeirri skoðun að bjóða fram lista gegn stjórninni. Framboð í félaginu er ekkert áhlaupaverk, það krefst mikilla umræðna um þá stefnu sem borin skal fram gegn starfsháttum núverandi stjórnar félagsins. Einnig verður að velja þá menn sem fara í framboð af mikilli kostgæfni. Það verða að vera verkamenn sem vinnufélagarnir þekkja að heiðarleik og baráttuþreki. Enginn lítill hópur getur sigrað starfshætti núverandi stjórnar. Það getur aðeins samtakamáttur fjöldamargra Dagsbrúnarmanna gert. Þessi atriði verðum við að hafa í huga ef okkur á að takast að mynda almennilega stjórn í okkar félagi.

### Ágreiningur

Mikill málefnalegur ágreiningur hefur verið á milli stjórnar og stjórnarandstöðunnar í Dagsbrún undanfarin ár. Mestur er ágreiningurinn um stefnuna í hagsmunabaráttunni og um lýðræðið í félaginu. Þessi ágreiningur verður ekki leystur á persónulegum grundvelli heldur með breyttri stefnu þeirra manna sem kosnir verða við stjórnvölinn.

21. nóvember s.l. samþykktu Dagsbrúnarmenn á félagsfundi að mikilvægasta krafan í kjarabaráttu félagsins í þeim samningum sem þá stóðu fyrir dyrum og nú er nýlokið ætti að vera lífvænleg laun fyrir 40 stunda vinnuviku. Yfirvinnubannið sem stóð í meira en mánaðartíma kenndi okkur hvað það er að vinna mannsæmandi vinnutíma eins og stéttarbræður okkar á hinum norðurlöndunum gera. En þessi krafa, að lifa af dagvinnutekjunum á ekki upp á pallborðið hjá forystumönnum verkalýðshreyfingarinnar. Þvert á móti eru þeir sífellt að vinna varnarsigra, enda var 100.000 króna kröfunni sem ASÍ þingið samþykkti ekki stefnt gegn hinum gengdarlausa vinnudegi sem við búum við.

Verkamenn báru upp kröfu um 150.000 króna lágmarkslaun á félagsfundi í Iðnó í vetur. Eðvarð Sigurðsson formaður félagsins neitaði að bera tillöguna upp til atkvæða þegar einsýnt þótti að hún yrði samþykkt með naumum meirihluta. Þar höfum við gott dæmi um ólýðræðislegar starfsaðferðir og eru þær geymdar en ekki gleymdar í hugum þeirra verkamanna sem gengu af fundi í mótmælaskyni við einræðið. Af nógu er að taka til að sýna fram á ólýðræðis-

Framhald á baksíðu

LEIÐARI

# Chile, ógnarstjórn í fjögur ár

Fjögurra ára valdaránsafmæli hinnar alræmdu herforingjaklíku í Chile ein hin ægilegasta martröð ógna og morða sem nokkur þjóð hefur orðið að þola. Tal fallinna og myrtra skiptir tugum þúsunda og tugir þúsunda sitja enn í fangelsum og fangabúðum, ofurseldir pyntingum og kvalalosta böðlanna sem hafa tileinkað sér meiri grimmd og fullkomnari pyntingartæki en jafnvel spænska rannsóknarréttinn gat nokkurn tíma dreymt um. Og fyrir þá sem ekki varð kastað í fjötra og deyddir, tilreiddi herforingjaklíkan, í samvinnu við CIA og Nóbelsverðlaunahafan Milton Friedman, þjóðfélag vitfirrtrar verðbólgu, atvinnuleysis og hungurs, þar sem aðeins hinir ríku fljóta ofaná. Dýrðarríki hinnar "frjálsu verslunar og samkeppni" moggans var borið í heiminn og glæpurinn gegn lýðræðinu var nefndur "sigur lýðræðisins" (Morgunbl. 32. sept. 1973).

Saga hildarleiksins í Chile á raunar upphaf sitt árum fyrir valdaráðnið. Það var í kosningunum 1970 að Þjóðfylkingin vann sinn stóra sigur með 36% greiddra atkvæða og Allende varð forseti. Þessi kosningasigur var áfall fyrir bandaríska nýlenduhagsmuni í landinu og varð veruleiki þrátt fyrir að ITT og CIA gerðu allt til að hindra hann. Í rauninni var hér um borgaralega byltingu að ræða, en ekki sósíalíska. Samt var þessi sigur einkar mikilvægur vegna þess að valdaaðstaða borgarastéttarinnar veiktist og gaf þannig verkalýðnum færi á að undirbúa enn frekari sigra. En kaldhæðni örlaganna kom því þannig fyrir að þessi sigurganga Þjóðfylkingarinnar (sem stöðugt vann á allt fram til valdaránsins) hafði í för með sér hrapaleg mistök sem hlutu að leiða til ósigurs. Þessi mistök má einfaldlega orða svo að þau felsist í oftrú Allende og fylgismanna hans á hina "friðsamlegu leið til sósíalismans". Í framkvæmd reyndust þjóðnýtingar stjórnarinnar (hvött áfram af rússum) á eigum erlendra auðhringa í landinu vera ótímabær og ekki í samhengi við vopnun (þvert á móti fór fram afvopnun verkamanna) alþýðunnar sem er trygging gegn valdaráni fasista eins og því sem átti sér stað. En það stoðar lítið að iðrast eftir dauðan og hverjum sem kenna má um mistökin þá er hitt víst að engin "friðsamleg" leið er lengur til í Chile.

Við hér á Íslandi getum dregið margskonar lærdóma af Chile. Í Chile sjáum við hversu hættulegt það getur reynst að binda trúss sitt við annaðhvort risaveldanna. Á þetta vorum við fyrir stuttu einnig minnt, en þá vegna Tékkóslóvakíu. Þetta hvetur okkur til að herða baráttuna fyrir úrsögn Íslands úr NATO og að herinn hverfi héðan burt. Það kennir okkur einnig að ef við setjum allt traust okkar á úrslit kosninga megum við búast við blóðugum ósigri fyrr eða síðar. Því það lýðræði sem borgarastéttin skammtar okkur er ekki í þágu hinna mörgu verði þeim á að krefjast réttlætis og frelsis. Og sú barátta sem nú fer fram í Chile fyrir frelsi setur okkur þær skyldur á herðar að stórefla stuðning okkar við frelsishreyfinguna. Eflum samstöðuna um skilyrðislausan stuðning við þjóðfrelsisbaráttu chileanskrar alþýðu.

11/9

Ísland úr NATO og herinn burt

# Eik og 21. águst

Frammhald af baksíðu

þó hann sé enginn skal þar samt vera mismunur á. Það sýni bara betur hvað stuðningur þeirra sé útsmoginn.

Allur þessu málflutningur EIKml minnir óneitanlega á svipaða atburði, sem skeðu fyrir ári síðan, en þá stóð KFÍml fyrir aðgerðum vegna innrásarinnar í Tékkóslóvakíu. Þá settu EIKarar af stað herferð gegn KFÍml, auglýstu í blöðum að KFÍml væri bara að þessu til að styðja rússa. Þá skorti þó ekkert á að rússneska heimsvaldastefnan væri kölluð heimsvaldastefna, en þrátt fyrir það voru aðgerðir KFÍml sagðar stuðningur við rússa og heimsvaldastefnu þeirra, eins og aðgerðir SHA nú. Ef við skoðum þessa tvo atburði í einu gæti manni dottið margt í hug. Flestir spyrja auðvitað hvers vegna bregðast EIKarar svona hart við ef einhverjir ætla að fara að mótmæla sovésku heimsvaldastefnunni. Það er engu líkara en þeir vilji segja að það séu aðeins örfáir sem eru á móti rússum, en flestir séu með þeim. Sjáið þið bara hvað þetta eru vafasamar aðgerðir, sá hópur er ævinlega stærri sem styður rússnesku heimsvaldastefnuna, en sá sem raunverulega mótmælir henni. Ef við skoðum atburðina í þessu ljósi og notum sömu þumalputtaregluna og EIKml, sem ekkert þekkir nema einangrunarstefnu, þá komust við að þeirri niðurstöðu að hamagangurinn í EIK gegn þeim sem vilja mótmæla sovésku heimsvaldastefnunni, stafar af stuðningi EIK við rússa. Því miður þá gildir sú regla sem EIK notar, ekki bara í þessu máli, heldur og í flestum málum og getur ekki leitt til annarar niðurstöðu.

Auðvitað vitum við að þetta er ekki rétt niðurstaða og að EIKml er það mikið í mun að berjast gegn sovésku heimsvaldastefnunni. En því miður þá er þeim annað meira í mun og það er í fyrsta lagi að láta bera á sjálfum sér, stjórnvisku sinni og foringjahæfileikum. Í öðru lagi er þeim fátt eins kært og að koma góðu höggi á KFÍml, sem þeir álíta einn sinn versta óvin. Þeir hafa t.d. gjarnan þá venju þegar þeim er mikið niðri fyrir og þeir hafa mikla þörf fyrir að nota sterk skammaryrði þá kalla þeir KFÍml hálftrotskíista og revisjónista. En þetta eru einhver verstu skammaryrði sem þeir þekkja og nú töldu þeir að eins og 21. ágúst í fyrra gæfist gullið tækifæri til að skamma KFÍml duglega og um leið gætu þeir látið mikið á sér bera. Marx sagði það einhverntíma að þegar sagan endurtæki sig væri það ævinlega sem farsi. Þannig hefur það líka orðið nú og ef EIKarar hafa ekki komið auga á það sjálfir hvernig þeir hafa gengið í lið með afturhaldinu í þessu máli og jafnvel frekar stutt þá sem þeir ætluðu að berjast gegn, þá er það verst fyrir þá sjálfa og raunar skaði fyrir marx-lenínísku hreyfinguna í heild.

Þetta verður að nægja í bili um 21. ágúst aðgerðirnar og fullyrðingar EIKml um að KFÍml hafi verið á móti stofnun 21. ágúst-nefndarinnar. Það sem á vantar til að svara árásum EIKml kemur fram í greinum Elíasar Davíðssonar í Vísi.

# Lélegir starfshættir Öryggiseftirlitsins

## Er ekki kominn tími til að ríkissaksóknari hefji rannsókn?

Frammhald af forsíðu

sem áður ekki það að fyrir löngu síðan hefði öryggiseftirlitið átt að krefjast í samráði við verkafólkið að neyðarhemlar væru settir á hverja einustu vinnuvél verksmiðjunnar og lífshættuleg slysagildra, sem stórt gat á gólfinu er, yrði girt af.

Mjög mörg dæmi eru um það að öryggiseftirlitið gefur stórhættulegum vinnutækjum skoðunarmiða ef atvinnurekendur aðeins lofa að gera lagfæringar við tækifæri. Reynslan er nú samt sem áður sú að viðgerðir eru ekki framkvæmdar fyrr en einhver verka maðurinn er búinn að drepa sig eða limlesta. Ef verkamenn kvarta og neita að vinna er þeim sagt að það sé nóg af mönnum til að koma í þeirra stað og þeir geti bara hypjað sig. Verkalýðsfélögin skipta sér ógjarnan af slíkum málum, það styggir atvinnurekendur sem sínkir eru á fé úr pyngju sinni til öryggismála. Í íslenska álverinu í Staumsvík eru atvinnurekendur með sitt eigið öryggiseftirlit og þrátt fyrir kærur verkamannanna til Öryggiseftirlits ríkisins kemur það ekki nálægt þessum fjölmennasta vinnustað á Íslandi. Það vita allir verkamenn sem vinna hjá ÍSAL að öryggiskerfi verksmiðjunnar er lítið annað en sjónarspil þegar þörf er öryggisins vegna að leggja út í kostnað við endurnýjun stórhættulegra og bilaðra vinnutækja. Þá er eina ráðið að leggja niður vinnu eins og margoft hefur gerst.

Ekki veit sá sem þetta skrifar betur en öryggiseftirlitið eigi að starfa um allt land, enda ríkisstofnun. Undanfarin ár hafa orðið fjölmörg dráttavélaslys, þegar dráttavélar án öryggishúss hafa oltið. Gjarna eru það börn og unglingar sem beðið hafa bana. Mikinn hluta þessara slysa hefði mátt fyrirbyggja ef krafist hefði verið af bændum að hafa öryggishús á dráttarvélum og láta unglinga eða börn innan 16 ára aldurs ekki vinna á þessum tækjum. En það er ekki gert af þeim sofandi embættismönnum sem þessi mál eiga að athuga, heldur er morðhættunni boðið heim.

Hægt væri að tína til mörg dæmi enn, en við látum þetta nægja að sinni. Það er krafa okkar að ríkissaksóknari hefji rannsókn á starfsemi öryggiseftirlits ríkisins vegna þess að sterk rök hníga að því að um embættisvanrækslu sé að ræða. Sú rannsókn mun leiða margt í ljós og vonandi verður hún til þess, ef af henni verður, að öryggiseftirlitið verði stórbætt og þá í samráði við verkafólk og verkalýðsfélögin. Það verður að veita þessum aðilum vald til að stöðva atvinnutæki sem hætta er á að séu slysavaldar. Næsti leikur er Ríkissaksóknarans, nú reynir á hvort hann vill leggja sitt af mörkum til að koma í veg fyrir enn frekari morð og limlestingar á verkafólki og annari alþýðu.



## ÚR BARÁTTUNNI

Alvarleg vinnuslys hafa átt sér stað undanfarnar vikur. Á Álafossi, verksmiðju í Mosfellssveitinni skeði það slys að verkamaður féll niður um gat á gólfi verksmiðjunnar. Fallið var um 5 metrar og lenti hann ofan á tætaravél sem var í gangi. Vinnufélagar hans brugðu við og gripu til hans í sömu andrá og föturinn lenti í tætaranum. Enginn neyðarhemill var á vélinni, þannig að enginn mannlegur máttur gat hindrað að föturinn tættist af. Öryggiseftirlit ríkisins var kallað á staðinn og hefur það krafist af eigendum verksmiðjunnar að viðunandi öryggisráðstafanir yrðu gerðar til að fyrirbyggja að verkafólk hrapaði niður um gatið á gólfinu.

En viti menn. Nokkrum vikum síðar, nánar tiltekið laust eftir mánaðarmótin síðustu átti sér stað samskonar vinnuslys. Verkamaður hrapaði niður um sama gatið og rotaðist þegar niður kom. Hann raknaði úr rotinu við það að hönd hans var að fara í ullartætaran, en sem betur fer slapp hann með þann eina áverka að merjast og fá skurð yfir höfuðið.

Öryggiseftirlit ríkisins hefur hér eins og svo oft áður ekki staðið í sínu stykki, vegna þess að þeir sjá ekki um að tilmælum þeirra sé framfylgt. Það hefur leitt til morða og limlestinga á verkafólki í framleiðslunni. Um þátt öryggiseftirlitsins verður ekki fjallað meira að sinni, grein um það mun birtast í Stéttabaráttunni á næstunni.

Þessi tvö vinnuslys á Álafossi urðu til þess að mikil umræða og athafnasemi greip um sig meðal verkafólksins. Búið er að kjósa trúnaðarmenn fyrir allar vaktir verksmiðjunnar, en áður var ekki einn einasti trúnaðarmaður fyrir Iðju nema að nafninu til. Verkafólkið er staðráðið í því að koma öryggismálum sínum í viðunandi horf, þrátt fyrir að það kunni að valda mótþróa hjá aurasjúkum atvinnurekendum. Augu margra hafa opnast fyrir því hvernig öryggiseftirlit ríkisins er í vasanum á atvinnurekendum eins og forystumenn Iðju félags verksmiðjufólks hafa sýnt sig vera með aðgerðaleysi sínu. Verkafólk, við skulum standa á okkar rétti og læra af reynslunni af framkomu atvinnurekenda og handbenda þeirra gagnvart okkur.

DAUÐASLYS Í KÓPAVOGI

Einn lét lífið, annar liggur fyrir dauðanum og sá þriðji slapp naumlega þegar vinnupallur utan á nýbyggingu í Kópavoginum hrapaði margar hæðir niður. Vinnupallurinn var festur við tvö örgrönn járnrör og vegna þyngdarinnar þegar þrír menn voru komnir á hann gaf rafsuðan sig með fyrrgreindum afleiðingum. Talið er víst að þegar pallurinn var settur upp á sínum tíma hafi festingarnar ekki verið nægjanlega voldugar t.d. eru of mjóar járnpípur notaðar og þegar rafsoðið var í þær varð suðan koluð eða einfaldlega uppfyllingarsuða. Þetta hörmulega vinnuslys verður að vera verkafólki víti til varnaðar til að gæta vel að öryggismálum

Framhald á síðu 3.

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud. 15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti 23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Walforff. Silfurbraut 2.

● Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum 38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi.

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v. 444 Börglumvej 2, 8240 Risskiv.

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.

# Heilsugæsla á vinnustöðum

**Dufþakur**

Í síðastliðinni viku sýndi sjónvarpið mynd frá kínverska alþýðulýðveldinu um heilsugæslu þar í landi. Ósjálfrátt hlýtur maður að bera saman þá þróun sem átt hefur sér stað í Kína í þessum efnum og hérlendis. Augljóslega miðast heilsugæsla og læknismenntun í Kína við það að þjóna alþýðunni; reynt er að koma upp sem bestri heilsugæslu á vinnustöðum og fólk úr verkalýðs og bændastétt fær þjálfun í að lækna algengustu kvilla. Það er jafnvel stefnt að því að sem flestir geti lært það allra einfaldasta í sambandi við nálastunguaðferðina.

Ólíkt er þessu farið hér á landi. Sjúkrahús og læknastofur eru að vísu búnar vönduðum tækjum til lækninga, en hversu mikið er heilsugæsla í þjónustu íslenskrar alþýðu? Hversu mikið er reynt að koma í veg fyrir hina ýmsu sjúkdóma? Hvernig er læknisþjónustu háttað í dreyfbýlinu? Og ekki hvað síst hvernig er með lækni með læknisfræðilegar rannsóknir á vinnustöðum og heilsugæslu þar? Það þarf varla að velta þessum spurningum lengi fyrir sér; svörin hljóta að vera fremur neikvæð.

Tökum til að mynda vinnustaðina. Í Kína eru starfandi læknar og/eða fólk með einhverja hjúkrunarmenntun á nær öllum vinnustöðum og fylgst nákvæmlega með heilsufari starfsfólksins. Hvernig er þessum málum háttað hér á landi? Heilsugæsla á vinnustöðum er svo gott sem engin. Það mætti nefna álverið í Straumsvík sem dæmi um þetta. Hér er um að ræða fjölmennasta vinnustað landsins, og þann sem öðrum fremur hefur verið orðaður við óhollustu. Þar er að vísu starfandi trúnaðarlæknir, en sem slíkur vinnur hann aðeins í hjáverkum. Starfsmenn eru kvaddir til hans áður en þeir hefja störf í álverinu og síðan aðeins einu sinni á ári. Í þeim tilfellum er varla um nokkrar rannsóknir á heilsufari viðkomandi að ræða, bara spurt hvort hann hafi fundið til einhverra óþæginda vegna verunnar í menguninni, fengið eða þ.h. . Síðan er þetta látið gott heita og sagt sísona: "Það er allt í lagi með þig". Beri slys að höndum er enginn læknis eða hjúkrunarmenntaðu starfskraftur til staðar og lyf eru af skornum skammti. Sjúklingnum er skellt á börur og honum ekið á slysavarðstofu í hasti, en til slíkra verka eru engir starfsmenn sérþjálfaðir. Fyrirtækið þarf náttúrlega ekki að hafa áhyggjur af heilsufari þess slasaða - það má alltaf fá annan í staðinn.

Verkalýðshreyfingin ætti að láta þessi mál til sín taka sem önnur hagsmunamál. Það er ekki nóg að einstakir læknar eða sjúkrahús taki við sjúklingnum eftir að sjúkdómurinn er kominn í ljós, dælí í hann pillum eða framkvæmi einhverjar aðgerðir; það þarf að koma í veg fyrir sjúkdóminn. Það er orðið of seint þegar viðkomandi er orðinn sjúklingur ófær til allra verka. Slíkt gerist ekki nema með reglulegu eftirliti með heilsufari manna og þá ekki hvað síst á vinnustöðum. Verkalýðshreyfingin ætti því að gera meiri kröfur um þetta, sérstaklega þar sem vinnan meira eða minna óholl.

Dufþakur.




Frammhald af síðu 2.

sínum. Einnig þarf að koma til sterkt öryggiseftirlit sem beitir hörðum aðgerðum í öryggismálum í samráði við verkafólkið og verkalýðsfélögin. Stéttabaráttan vottar aðstandendum mannanna sem fyrir slysinu urðu dýpstu samúð.

ATH: Mynd á forsíðu af slysstaðnum.

**RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum**

**RAUÐUR VETTVANGUR frá lesendum**

# Örn og heimsvaldastefnan

Misskilningur eða meðvituð mistúlkun

Enn er Örn Ólafsson að, við bréfaskriftir sínar til Stéttabaráttunnar. Í bréfi sem birtist í 29. tbl. Stb. gerir hann tilraun til að þyrla upp moldviðri og mistúlka skýrt svar MVS við fyrra tilskrifi hans.

Þar sem Matthías er illu heilli ekki á landinu, langar mig til að taka upp hanskann fyrir hann og stefnu KFÍ/ml, gegn hártogunum og útúrsnúningum Arnar.

Örn undrast það að Stéttabaráttan skyldi fagna stofnun Palestínunefndarinnar, en harma stofnun Bgh eins og að var staðið. Með því að draga hliðstæðu milli þessa tvenns, breiðir hann yfir aðalástæður misjafnlegra móttaka í Stb.

Stofnun Palestínunefndarinnar

Stéttabaráttan fagnaði stofnun Palestínunefndarinnar vegna þess að þar er um að ræða stuðningsstarf við þjóðfrelsisbaráttu, á þeim grundvelli sem KFÍ/ml leggur upp sem réttan í slíku stuðningsstarfi. Hún er stofnuð til að styðja viðkomandi þjóðfrelsisöfl á þeirra eigin grundvelli og til að túlka baráttu þeirra, á þann hátt sem þau gera sjálf. En ekki til að koma á framfæri skoðunum einhverra blekpáfa í öðru heimshorni, um það hvernig heyja á baráttuna. Þannig áróður gagnar stuðningsstarfinu ekki. Það að útgáfa slíkra stuðningssamtaka innihaldi mótsagnakenndan áróður eða jafnvel efasemdir um réttmæti baráttunnar, er ekkert annað en skemmdaverkastarfsemi. Það er á grundvelli skilyrðislauss stuðnings Palestínunefndarinnar við baráttu Palestínumanna, sem Stb. fagnaði stofnun nefndarinnar.

Stofnun Bgh

Hitt atriðið, að Matthías og Stéttabaráttan fögnuðu ekki heldur hörmuðu stofnun Bgh með þeim stefnuskrárgrundvelli sem ofan á varð, er mjög skiljanlegt og ekki í mótsögn við móttökurnar sem Palestínunefndin fékk í Stb., þrátt fyrir tilraunir Arnar til mistúlkunar. Örn bendir réttilega á að KFÍ/ml og EIK/ml hafi á undanförnum árum tekið þátt í samfylkingum gegn bandarískri heimsvaldastefnu í einstökum baráttumálum, svo sem með aðild að Víetnam nefndinni, Samtökum herstöðvaandstæðinga o. fl. og svo mun öruggleg verða áfram. En það er ekki stefnubreyting hjá þessum aðilum þótt þeir hafni þátttöku í samfylkingu sem samkvæmt grundvelli sínum á að berjast gegn allri heimsvaldastefnu, en skilgreinir síðan aðeins árásargirni og ásælni annars risaveldisins af tveim, sem heimsvaldastefnu. Í slíkri samfylkingu geta andheimsvaldasinnar ekki tekið þátt, þar sem hún er ekkert annað en stuðningur við annað heimsveldið gegn hinu. Þekking Arnar á eðli samfylkinga og samfylkingarstefnu marx-lenínista ætti að vera slík, að óþarfi sé að þyrla upp moldryki.

Hann þykist sjá mótsögn í því að styðja baráttu í einstökum málum gegn öðru risaveldinu þar sem það er árásaraðili, en neita þátttöku í samfylkingu sem skilgreinir annað risaveldið sem heimsvaldasinnað, - þegir yfir hinu eða jafnvel telur það "skrifræðislegan" eða "afbakaðan sósíalískan frelsara þriðja heimsins".

En þótt KFÍ/ml hafni þátttöku í Bgh á grundvelli stefnuskrár hennar er ekki þar með sagt að kommúnistar geti ekki né muni taka þátt í aðgerðum hennar í einstökum baráttumálum, sem beinast gegn bandarísku heimsvaldastefnunni þar sem hún birtist. Jafnframt munu þeir neita þátttöku og berjast gegn aðgerðum sem eru til stuðnings sósíalheimsvaldastefnunni, ásælni Sovétríkjanna og Kúbuleppa þeirra.

Sósíalheimsvaldastefnan og Örn

Það er rétt að margir "vinstrimenn" trúa því ekki að Sovétríkin séu heimsvaldasinnað auðvaldsríki. Þó verður æ fleirum þetta ljóst, þrátt fyrir tilraunir "sósíalískra efnishyggjumanna" í Alþýðubandalaginu og Fylkingunni til yfirbreiðslu, vegna þess hve augljóslega utanríkisstefna Sovétríkjanna afhjúpar þau í verki. Í augum þessara "efnishyggjumanna" eru óhagstæð verslunarviðskipti annara ríkja við Sovétríkin alls engin (sbr. Örn) sönnun heimsvaldaeðlis þeirra síðarnefndu, heldur orsakast það væntanlega aðeins af "óviðráðanlegum sósíalískum markaðslögmálum". Þannig eru hin algjöru yfirráð Sovétríkjanna yfir efnahagslífi A-Evrópu, Kúbu og fleiri landa eitthvað sjálfsagt og óviðráðanlegt, óháð allri heimsvaldastefnu. Það að Sovétríkin seilist allsstaðar til áhrifa þar sem bandaríska heimsvaldastefnan á í vök að verjast og heyr við hana gengdarlaust vígbúnaðarkapphlaup, virðist vera í augum Arnar og co. þáttur í baráttu sovéska forstjóraveldisins fyrir "sósíalisma".



Þing Æðstaráðs Sovétríkjanna sem skipað er fulltrúum nýju borgarastéttarinnar sem stefnir að heimsyfirráðum.

Sovétríkin eru í efnahagslegri ásælni sinni eftir hráefnum og mörkuðum, árásargjarnt rísandi heimsveldi sem svífst einskis. Hvernig skyldi t.d. standa á því að ríkisstjórn Sómalíu sem fyrir nokkrum mánuðum var kölluð "framfarasinnuð og jafnvel "sósíalísk" af Sovétstjórninni og öðrum endurskoðunarsinnum, skuli skyndilega hafa breytt um nafn og sé nú talin "heimsvaldaleppur" vegna stuðnings síns við þjóðfrelsisöfl í Eþíópíu. Það er vegna þess að þar gagnar hún ekki hagsmunum Sovétríkjanna. Eiga verjendur rússneska auðvaldsins ekki erfitt að fóta sig?

Eða þá innrásin í Tékkóslóvakíu sem í augum þessar "efnishyggjumanna" var einhvers konar "sósíalískt slys", sennilega sprottið af álíka hlutlægum forsendum og "stalínískri fortíð" Brésneffs eða öðru álíka rugli.

Vissulega er það skiljanlegt að "sósíalistar" sem telja forstjóraveldi SÍS og ríkisrekinna fyrirtækja vaxtarsprota "sósíalískrar þróunar" á Íslandi, haldi því fram að Sovétríkin með sinni nýju borgarastétt séu "sósíalísk". En marx-lenínistar skilgreina þau öðru vísi og það gera þeir með aðstoð kenninga marx-lenínismans, um stéttareðli ríkisvaldsins og um heimsvaldastefnuna. Það er hluti af almennum sannindum marxismans að ríkisvald er alltaf stéttarvald. Sovétríkin í dag eru stéttaþjóðfélag, þar sem ríkiseinokunarauðvald hefur forræði fyrir ríkisvaldinu og arðrænir verkalýðinn. Sú þróun varð endanlega afráðin, með sigri endurskoðunarstefnunnar og þar með borgarastéttarinnar í stéttabaráttunni innan KFR á 6. áratugnum. Heimsvaldaeðli þessa auðvalds leynir ekki á sér í dag, í ásælni þess og ofur áherslu á vígbúnaðarframleiðslu, sem allsstaðar blasir við. Það er á grundvelli þeirrar greiningar sem marx-lenínistar sjá að samfylking gegn heimsvaldastefnu almennt sem berst aðeins gegn öðru heimsveldinu, réttlætir um leið heimsvaldastefnu hins og er þar af leiðandi ekki andheimsvaldasinnuð.



# frh BSRB

Af forsíðu.

þungt í skauti og hafa þeir því reynt að baktryggja sig í þeirri lagasetningu sem "gaf" opinberum starfsmönnum "leyfi til" að fara í verkfall. Þar er m.a. kveðið á um nefnd, sem skuli skera úr um hvaða undanþágur beri að veita frá allsherjarverkfallinu, en lögin kveða á um að ~~nauðsyn~~ "nauðsynlegri öryggis- og heilbrigðisþjónustu" beri að halda uppi. Í nefndinni hefur ríkisvaldið 6 menn á móti 3 frá BSRB, þ.e. þrír eru frá ríkinu, tveir tilnefndir af Alþingi og einn skipaður af Hæstarétti. Það er fátítt að verkalýðsfélag ráði ekki sjálft þeim undanþágum sem veittar eru í verkföllum. Verkfall opinberra starfsmanna er ekki og getur aldrei orðið "samvinna á milli opinberra starfsmanna og ríkisvaldsins". Verkfallið hlýtur að beinast gegn ríkisvaldinu til að reyna að knýja það til samninga. Með meirihluta í undanþágunefndinni mun ríkisvaldið hins vegar örugglega reyna allt sem það getur til að draga úr afli því sem verkfallsvopnið gefur opinberum starfsmönnum, einkum með því að veita undanþágur í mikilvægum störfum, þannig að verkfallið bitni sem minnst á ríkisvaldinu, en þreyti aðeins launafólk innan BSRB. Gegn öllum slíkum tilraunum verða opinberir starfsmenn að standa vel á verði. Ef ríkisvaldið reynir að þvinga í gegn undanþágur sem engin eru ætlaðar til að draga úr áhrifamætti verkfallsins, verða opinberir starfsmenn að standa saman og neita að hlýða þeim úrskurði.

Ert þú félagi í BSRB?

Til að teljast fullgildur meðlimur í aðildarfélögum BSRB þurfa menn í flestum tilfellum að hafa útfyllt eyðublað þar að lútandi og fengið í hendur félagsskírteini. Það er ekki nægjanlegt þótt viðkomandi maður hafi borgað félagsgjald til félagsins og hafi starfað hjá ríkinu í langan tíma. Til að hafa kosningarétt í allsherjaratkvæðagreiðslunni þarf viðkomandi maður að vera á skrá. Þess vegna er mjög mikilvægt að þeir opinberu starfsmenn sem fá t.d. ekki sendan "Ásgarð" hringi á skrifstofu félags síns og athugi hvort þeir séu ekki örugglega fullgildir félagar.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
31. tbl. 6. árg. 13/9. 1977.

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.




Frammhald af forsíðu.

# Verður framboð í Dagsbrún?

legar aðferðir núverandi forystumanna félagsins. Í fyrrahaust 21. nóvember samþykktum við á félagsfundi með öllum greiddum atkvæðum að gefið yrði út félagsblað sem allir verkamenn gætu skrifað í og fréttablöð eins oft og

þörf krefði. Sú fundarsamþykkt hefur verið margsvikin og fara stjórnendur félagsins undan í flæmingi og með lygum þegar þeir eru krafðir svara. Margar tillögur höfum við dagbrúnarmenn borið upp á fundum félagsins til að fá aukið lýðræði fyrir hinn almenna félagsmann samþykkt og framkvæmt. Við vildum að haldin yrði kjararáðstefna sem opin yrði öllum verkamönnum félagsins, til að ræða kjörin og hvaða aðferðum við gætum beitt til að bæta þau. Þessa tillögu kallaði Eðvarð Sigurðsson orðrétt á félagsfundi ofskipulag og óþarfa. Hann vill að fámennur hópur félagsmanna, þar sem hann er einráður, taki allar ákvarðanir. Þess vegna neitaði hann að bera tillöguna upp til atkvæða. Yngri verkamenn í félaginu hafa margoft komið að máli við Eðvarð til að bjóða fram aðstoð sína við að efla félagsstarfið, sem er lítið utan skákstarfsins endrum og eins. Öllu slíku hefur verið hafnað með volæðis og uppgjafartali því sem einkennir starfshætti stjórnarinnar.

tvístraði Dagsbrúnarstjórnin verkamönnum og lét þá samþykkja samninginn naumlega í leynilegri atkvæðagreiðslu. Í vetur skeði það svo að verkamönnum forspurðum að Halldór og Eðvarð setja sérsamninginn við Eimskip inn í aðalsamninga félagsins, þannig að ef á að hrófla við honum þarf að fella heildarsamninga félagsins. Nær allir hafnarverkamenn Eimskips skrifuðu undir mótmælaskjal þar sem krafist var að þeir einir gætu fjallað um þau mál sem að þeim snéru og að sérsamningurinn yrði felldur burt úr aðalsamningunum. En ekki heyrist hósti né stuna frá stjórninni um þetta mál. Þeir þeigja því þeir vita upp á sig skömmina. Er það nokkur furða þó að farið sé að þykkna í mönnum? Það eru vissulega komin næg rök fyrir því að bjóða fram lista, fella stjórnina og endurvekja reisn Dagsbrúnarmann.

Það rekur fleig á milli almennra félagsmanna og launaðra starfsmanna félagsins

slitni ekki úr tengslum við okkur með margfalt betri lifnaðarháttum.

Síðasta mótframboð gegn stjórninni árið 1970 verður að vera okkur víti til varnaðar um hvernig eigi ekki að standa að þessum málum. Að því framboði stóð aðeins fámennur hópur Dagsbrúnarmanna, sem átti ekki í skörpum málefnaágreiningi við stjórnina. Framboðið var illa skipulagt og

margir verkamenn sem studdu það í upphafi gugnuðu þegar til úrslita dró. Það verður að

vera almennt frumkvæði verkamannanna á Dagsbrúnarsvæðinu, þeirra mál, ef vel á til að takast að fella óstjórnina í félaginu. Á sínum tíma sameinuðust Morgunblaðið og Þjóðviljinn í lofgjörðarskrifum um núverandi stjórn og árásum á þá menn sem ætluðu sér að fella hana. Svo mun einnig verða núna, þrátt fyrir að framboð okkar eigi ekki að vera flokkspólitískt, heldur byggja á hagsmunum verkamanna. Verkamenn, við verðum að ræða þessi mál og hefjast síðan handa. Við eigum okkar eigin málgagn þar sem Dagsbrúnarverkamaðurinn er. Honum skulum við beita til að fella óstjórnina og endurvekja Verkamannafélagið Dagsbrún sem baráttutæki í höndum vinnandi verkamanna.



## Samningarnir

Undanfarin ár hefur Halldór nokkur Björnsson, sem titlaður er ritari félagsins, staðið fyrir gerð ýmissa sérsamninga Dagsbrúnar við stóratvinnurekendur. Illræmdastur þessara samninga er sérsamningurinn við Eimskip, þar sem verkamenn urðu að afsala sér seinni kaffitímanum í dagvinnu til að fá sjálfsögð og margsvikin réttindi um almennilegan aðbúnað við hafnarvinnuna. Þrátt fyrir mikla andstöðu á sínum tíma gegn því að afsala sér kaffitímanum fyrir nokkrar krónur og sjálfsagðan aðbúnað,

að þeir eru á öðrum og miklu betri kjörum en við. Starfsmenn félagsins eiga að vera á sömu kjörum og verkamennirnir og sinna eingöngu starfi fyrir Dagsbrún. Það dugir ekki að forystumenn félagsins fái miklu hærri laun en við, þegar það bætist svo við í ofanálag að þeir þiggja laun annarsstaðar fyrir vinnu sem unnin er þegar þeir eiga að vera að vinna fyrir félagið. Forystumenn eiga að vera á sömu kjörum og við sem þeir

semja og vinna fyrir. Það er mjög mikilvægt til þess að þeir



Fórnarlömb fasistabrjálæðinganna sem ráða í Cíle.

# Chilefundur
## *í Félagsstofnun stúdenta*

Síðustu helgi var haldinn fjölmennur fundur um Cíle í Félagsstofnun stúdenta. Letelier ung stúlka frá Cíle, sagði frá hörmungunum sem landar hennar búa við og hún kynntist náið áður en hún slapp naumlega undan Pinocet fasistastjórninni. Kvikmynd var sýnd um Victor Jara, hinn fræga baráttusöngvara Suður Amerískrar alþýðu. Fasistarnir myrtu hann sem kunnugt er á íþróttaleikvanginum í Santíagó 15 sept. 1973. Íngibjörg Haraldsdóttir flutti ræðu þar sem íslenskt alþýðufólk var hvatt til að sýna stuðnig sinn við kúgaða alþýðu Cíle.

Auglýsinguna hér til hægri handar setti Heimdellingssríllinn í Moggann til að slá riki í augu alþýðufólks, og fela sitt sanna eðli.

**CHILE-fundur**
**til stuðnings mannréttindum**

Fundurinn verður haldinn sunnudaginn 11. september kl. 15:00 í Stúdentaheimilinu við Hringbraut í tilefni af fjögurra ára afmæli herforingjastjórnarinnar í Chile.

Dagskrá fundarins:
1. Ingibjörg Haraldsdóttir flytur erindi.
2. Sýnd verður kvikmyndin „Félagi Victor Jara" eftir Stanley Formann.
3. Myriam Bell pólitiskur flóttamaður frá Chile segir frá ógnarstjórninni og hjálparstarfi.

Heimdallarfélagar eru hvattir til að fjölmenna og sýna þannig hug sinn til mannréttindamála hvarvetna í heiminum.

**Gegn fasisma —**
**gegn kommúnisma.**
**Með mannréttindum**

Heimdallur SUS í Reykjavík.

# Eik og 21. águst

Vegna þeirrar fréttar að KFÍ-ml hafi verið á móti stofnun 21. ágúst-nefndarinnar, sem nýlega birtist í Verkalýðsblaðinu, verðum við að taka fram eftirfarandi. Það eru ekkert annað en ómerkilegar lygar að KFÍml hafi sett sig gegn stofnun nefndarinnar. Við tókum þátt í starfi hennar allt fra stofnun og einn félagi okkar átti meðal annars sæti í stjórn nefndarinnar. Það er því gegn betri vitund þegar Verkalýðsblaðið heldur því fram að KFÍ-ml hafi barist gegn stofnun nefndarinnar.

Hitt er aftur á móti rétt sem Verkalýðsblaðið minnist ekki á að félagar KFÍml vildu að starf nefndarinnar héldi áfram eftir 21. ágúst. Því höfnuðu EIKarar og tókst að leggja nefndina niður strax eftir aðgerðirnar. Þær árásir sem EIK hefur haft í frammi gegn Samtökum herstöðvaandstæðinga sýnir kannski betur en flest annað hvoru megin í baráttunni þessi samtök standa. Bandamenn þeirra í þeirri rógsherferð sem þeir hafa hrundið

af stað eru líka í samræmi við málstaðinn.

Frægir leigupennar erlendrar heimsvaldastefnu hafa gengið til liðs við þá, eins og t.d. Jón Valur Jensson, sem hrópaði húrra fyrir morðum Pinosett i Chile á sínum tíma. Þessir og aðrir álíka páfar

hafa gengið til liðs við Eik og Verkalýðsblaðið i rógsherferð

gegn SHA. Þeir hafa viðnað í greinar sem EIKarar hafa skrifað og tekið upp fáranleg skrif þeirra um að SHA væru í raun að styðja sovésku heimsvaldastefnuna með aðgerðunum 21. ágúst. Rök hinna sjálfumglöðu óskeikulu EIKara, fyrir

kröfunum. Sömu rök komu líka frá spakvitrum frétta-




skýranda í "Verkalýðsblaðinu", að það skipti engu máli þó talað sé um að Sovétríkin hafi staðið á bak við innrásina, því það sé bara í textanum en ekki kröfunum. Þar sé aðeins talað um að Varsjárbandalagið fari með heri sína úr Tékkóslóvakíu, en ekki að Sovétríkin fari þaðan. Greinar-

höfundur lætur raunar lesandan um að ráða í þá gátu hvernig hann sjái mismun á þessu og

stuðningi SHA við rússa, eru í sjálfu sér svo fáránleg að þeim ætti alls ekki að þurfa að svara. Þó verður að eyða á þau nokkrum orðum, þó það yrði kannski ekki til annars en sá nokkrum efa í brjóst hinna ókryndu konunga fræðikenningarinnar. Nú fyrir stuttu hefur hinn ágæti herstöðvaandstæðingur Elías Davíðsson skrifað tvær greinar í Vísi til að svara rökum Jóns Vals Jenssonar

um 21. ágúst aðgerðir SHA, sem öll eru raunar fengin úr herbúðum EIKml. Við þetta svar, þó gott sé, er rétt að bæta nokkrum atriðum

Þessi Jón Valur Jensson byggir fullyrðingu sína um stuðning SHA við sovésku heimsvaldastefnuna á slúðurgrein eins meðlima EIKml, sem birtist í Alþýðublaðinu. Þar kemst greinarhöfundur að þeirri fáránlegu niðurstöðu að SHA hafi verið að mótmæla innrás Varsjárbandalagsins í Tékkóslóvakíu 1968 til að lýsa yfir stuðningi sínum við heimsvaldastefnuna. Þetta þykist hann jafnvel sanna með því að geta sýnt fram á að í þeim þremur kröfum sem SHA settu fram var ekki talað um Sovétríkin heldur Varsjárbandalagið. Þó að þetta tvennt hafi raunar verið lagt að jöfnu í texta fréttatilkynningarinnar, sem fylgdi með til fjölmiðla og var víðast hvar birt ásamt

Frammhald á síðu 2.

# Stéttabaráttan

**Nú er septembermánuður hálfnaður og áskrifta og útbreiðsluherferðin er enn í fullum gangi. Lausasalan hefur gengið mun betur en áskriftasöfnunin. Herferðinni lýkur um næstu mánaðarmót, þess vegna verðum við að herða okkur í áskriftasöfnuninni.**

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 klukkan 15 og 18 .



Leiðrétting:
Í greininni EIK og 21. ágúst, hafa orðið þau leiðu mistök að greininni hefur verið raðað rangt upp. Þau mistök eru hér með leiðrétt, en þessi hluti greinarinnar átti að vera á þennan veg

# Eik og 21. ágúst

Vegna þeirrar fréttar að KFÍ-ml hafi verið á móti stofnun 21. ágúst-nefndarinnar, sem nýlega birtist í Verkalýðsblaðinu, verðum við að taka fram eftirfarandi. Það eru ekkert annað en ómerkilegar lygar að KFÍml hafi sett sig gegn stofnun nefndarinnar. Við tókum þátt í starfi hennar allt fra stofnun og einn félagi okkar átti meðal annars sæti í stjórn nefndarinnar. Það er því gegn betri vitund þegar Verkalýðsblaðið heldur því fram að KFÍ-ml hafi barist gegn stofnun nefndarinnar.

Hitt er aftur á móti rétt sem Verkalýðsblaðið minnist ekki á að félagar KFÍml vildu að starf nefndarinnar héldi áfram eftir 21. ágúst. Því höfnuðu EIKarar og tókst að leggja nefndina niður strax eftir aðgerðirnar. Þær árásir sem EIK hefur haft í frammi gegn Samtökum herstöðvaandstæðinga sýnir kannski betur en flest annað hvoru megin í baráttunni þessi samtök standa. Bandamenn þeirra í þeirri rógsherferð sem þeir hafa hrundið

af stað eru líka í samræmi við málstaðinn.

Frægir leigupennar erlendrar heimsvaldastefnu hafa gengið til liðs við þá, eins og t.d. Jón Valur Jensson, sem hrópaði húrra fyrir morðum Pinosett í Chile á sínum tíma. Þessir og aðrir álíka páfar hafa gengið til liðs við Eik og Verkalýðsblaðið í rógsherferð gegn SHA. Þeir hafa vitnað í greinar sem EIKarar hafa skrifað og tekið upp fáranleg skrif þeirra um að SHA væru í raun að styðja sovésku heimsvaldastefnuna með aðgerðunum 21. ágúst. Rök hinna sjálfumglöðu óskeikulu EIKara, fyrir stuðningi SHA við rússa, eru í sjálfu sér svo fáránleg að




þeim ætti alls ekki að þurfa að svara. Þó verður að eyða á þau nokkrum orðum, þó það yrði kannski ekki til annars en sá nokkrum efa í brjóst hinna ókryndu konunga fræðikenningarinnar. Nú fyrir stuttu hefur hinn ágæti herstöðvaandstæðingur Elías Davíðsson skrifað tvær greinar í Vísi til að svara rökum Jóns Vals Jenssonar um 21. ágúst aðgerðir SHA, sem öll eru raunar fengin úr herbúðum EIKml. Við þetta svar, þó gott sé, er rétt að bæta við nokkrum atriðum. Þessi Jón Valur Jensson byggir fullyrðingu sína um stuðning SHA við sovésku heimsvaldastefnuna á slúðurgrein eins meðlima EIKml, sem birtist í Alþýðublaðinu. Þar kemst greinarhöfundur að þeirri fáránlegu niðurstöðu að SHA hafi verið að mótmæla innrás Varsjárbandalagsins í Tékkóslóvakíu 1968 til að lýsa yfir stuðningi sínum við heimsvaldastefnuna. Þetta þykist hann jafnvel sanna með því að geta sýnt fram á að í þeim þremur kröfum sem SHA settu fram var ekki talað um Sovétríkin heldur Varsjárbandalagið. Þó að þetta tvennt hafi raunar verið lagt að jöfnu í texta fréttatilkynningarinnar, sem fylgdi með til fjölmiðla og var víðast hvar birt ásamt kröfunum. Sömu rök komu líka frá spakvitrum fréttaský...nda í "Verkalýðsblaðinu", að það skipti engu máli þó talað sé um að Sovétríkin hafi staðið á bak við innrásina, því það sé bara í textanum en ekki kröfunum. Þar sé aðeins talað um að Varsjárbandalagið fari með heri sína úr Tékkóslóvakíu, en ekki að Sovétríkin fari þaðan. Greinarhöfundurlætur raunar lesandan um að ráða í þá gátu hvernig hann sjái mismun á þessu og

Frammhald á síðu 2.